J. N. J.

# Forordning

um

# Huus-Vitianer

a

# Islande.

HIRSCH-HOLMS-Slote þañ 27. Maii Anno 1746.



Prentud ad Hoolum i Hialltadal Anno 1749.

# Vier Cristian sa Siøtte/ af Guds Nad / Kongur til Danmerkur og Noregs/ Vinda og Gauta / Hertuge i Slesvijk/ Holstein/ Stormarn og Dytmersken / Greife i Oldenborg og Delmenhorst/ etc.

Giorum ollum Vitanlegt: Ad, jafnvel þott med Vorre Allra-Nadugustu Forordning um̃ Catechisation fyrer Ung-Bornunum a Voru Lande Islande, dateradre þan̄ 29. Maii 1744. i hen̄ar 14. Art: sie befalad, ad Huus-Vitian skule halldast af Geistlegheitunum þar i Lande, þa høfum vier þo nu funded, ad Vier orsøkunst til, um̃ soddan̄ Huus-Vitianer en̄ þa nakvæmlegar ad tilskipa og befala, so sem Vier og hier med Allra-Nadugast tilskipum og befølum:

1. Prestarner a Islande skulu hvør eirn fyrer sig vera skyllder til, i min̄sta Maata Tvisvar a Are, ad vitia þeirra Safnadar i þeirra Huus og Hijbijle, og þad hvørs Huuss og Bwstadar i þeim sama; En̄, hvar Sooknen̄ er lijtel, ellegar eingen̄ Annexia finst, skal han̄ optar taka sier fyrer þessa Naudsynlega Høndlun, hvar med Profasturen̄ i hvøriu Hierade skal hafa kostgiæfelega Tilsioon, og somuleides Biskupen̄ med sierhvøriu Tækefære Alvarlega tilhallda honum vidkomande Profostum og Prestum, ad þeir forsoome hier eckert i. Fin̄est nockur Prestur Van̄ræken̄ þar i þa amyn̄est han̄ i fyrsta Sin̄e af Profaste, en̄ verde þad an̄ad Sin̄, þa mulcterest han̄ epter sijns Kalls In̄tekt og sin̄e Formegan, hvørre Peninga Mulct ad vixla skal til Fatækra Barna Uppfrædingar.

2. Tijmen̄, a hvørium þesse Hws-Vitian skal fram̃ fara, er Prestenum leyft Sialfsum ad wtvelia, þo so ad þar til sieu wtsieder þeir Tijmar a Arenu, sem Soknar-Foolkenu eru hentugaster, og þad er sem allra flest heima, uppa þad ad Nytsemden̄, hvar ad allt lijtur, fae orded þess stærre.

3. Adur en̄ þesse Hws-Vitian byriast, skal Presturen̄ saman̄bera vid sijna Medhiaalpara og af þeim san̄spyria Asigkomulag sierhvørs Heimiles og Persoonu, uppa þad ad han̄, fyrerfram̃ giete haft þeim mun vissare Underrietting um̃ eins og sierhvørs Fram̃ferde; Og skulu Medhiaalpararner vera skyllder til, epter Logmaalsens Tilskipan og þeirra Samvitsku, ad giefa til kyn̄a, hvad þeim hier i kan̄ ad vera vitanlegt, hvar a moot um̃ Nøfn þeirra, þa þess finst Þorf, skal þagad vera.

4. Til Medhiaalpara, skulu epter Løgunum og vorre Allranadugustu Forordning um̃

Cate-

Catechisationer, Artic. 13. Utveliast þeir Uppritugustu, bestu og Umhyggiusømustu Meñ i hvørre Sookn, og ber øngvum, hvørt þeir eru Hreppstioorar, eda Virdingar Meñ, fra þessu Embætte undañtakast, þa þeir eru þar til af Prestenum wtsieder, ecke helldur byriar þeim þar fyrer ad uppastanda, ad friiast fra ødrum Verslegum Utriettingum, þar ed Hreppstioora og Medhialpara Utriettingar eru næteingdar hvøriar ødrum, hvar i hvørke a Prests nie S slumañs Siidu byriar ad nockur Hindrun giørest.

5. Presturen skal nockrum Tijmum, og hid miñsta Suñudageñ fyrer, kuñgiøra þad Søfnudenum af Predikunar-Stoolnum, hvørra Hws hañ i þeirre Viku ætlar ad vitia, og ꜳmiña þa, ad vera heima, og i þeirra Hwsum til Stadar i ꜳkvedeñ Tijma; Audsiine sig nockur i þvi mootfalleñ, og reiser ad Oagtadre þeirre undañgeingnu Advørun ꜳn allra naudsynlegustu Orsaka, i burt fra siinu Heimile, edur lætur sig ꜳ añañ Hꜳtt fiña þverbroteñ vid Presteñ i þessare hønum tilskipudu Utriettingu, þa skal Presturen giefa þad til Vitundar fyrer vidkomande Verslegu Yfervallde, hvørt ed Mootmælalaust skal adstoda hñ, og mulctera hañ mootþrooanlega i Fyrsta Siñe 2. Mørkum Donskum, edur meira, epter Sakareñar Asigkomulage, til Uppfrædingar fatækra Barna; So skal og Mulcten vid vidvarande Mootstrijdu upphæckast, hvørt ed ecke einasta a ad skiliast uñ Hws-Fedur og Hws-Mædur, helldur og uñ Pioonustu-Foolk; Sømuleides skulu Forelldrarner vera skylduger til ad giøra Reikningskap fyrer þeirra Børn, þa þau fiñast ei ad vera til Stadar; Fiñest Yfervallds Personañ sialf sek i Ohliidne hier i, skal Amtmadureñ, epter Krijngumstædum, til ꜳdurtiedrar Brwkunar ꜳlijta hañ med tilbærelegu Straffe; Eñ yferfalle nockur Presteñ ꜳ Reisuñe i hañs Hws-Vitian, edur i ødrum Embættes Utriettingum, þa straffest hañ, so sem sꜳ, er yferfellur Presteñ epter Guds Pioonustugiørd, og stande Openberar Skripter, og straffest þar ad auke ꜳ Kroppenum, hvar med og aller þeir eiga ad ꜳlijtast, sem ꜳ einhvørn Hꜳtt uppegna nockurn til Ohliidne ꜳ moote Prestenum.

6. Aller þeir sem eru vid Sioo-Siiduna til ad fiska, edur Vestmaña-Eyum, eda so kallader Lausa-Meñ, skulu uñ þañ Tijma þeir dvelia þar, i Tillite til þessarar Hws-Vitiunar, ꜳlijtast sem Prestsens eiged Sooknar-Foolk, audsiina hønum alla Hliidne og Virding, og vera vid þa þad er ecke ølldunges Omøgulegt. Siine þeir sig ꜳ nockurn Hꜳtt mootþrooanlega Prestsens Christelegum Amiñingum, þa straffest þeir af þess Plꜳtz Verslegu Yfervallde, so sem i 5. Articula ꜳkveded er.

7. Pa er nu Presturen kemur nockurstadar til Hws-Vitiunar, skal hañ audsyna sig Alvarlegañ, Gudhræddañ, Odruckeñ og Vingiarnlegañ, so sem einum Guds Orda Pienara soomer og so Heilagre Handtieran sem hañ fyrer Hende hefur. Par ꜳ moot skal hañ taka sier Vara fyrer Drambseme, Siersiñe, Brꜳdgiede, Stygglynde og Hvepsyrdum, uppꜳ þad þeir eige skule ꜳlijtast, so sem þeir, sem Drottna vilia yfer Sꜳlunum, hvar med þeir einasta giøra sig Forøktunarlega medal añara; Uppꜳ

 þad

þad ſkal honum vera hid Alvarlegaſta fyrerboded, ad eyda Tijmanum med Onytſamlegu Tale og Gamne, edur ødrum Oſæmelegum Utriettingum, eñ þa ſijdur ſkal hañ leita Breñevijns edur añars Afeings Dryckiar, hvør honum fyrer utañ Naudſyn ſkal ølldunges vera fyrerbodeñ. Skule nockur Preſtur i einum einaſta Stad læta fiña ſig Olvadañ og Druckeñ, edur æ añañ Hætt ad giøra Hneixlan af ſier, ſkal hañ Forſoomünarlauſt angiefaſt fyrer Profaſtenum, og epter yferbevijſudu Otilbærelegu Framferde alvarlega ſtraffaſt. Ad ſijduſtu ſkal þad hier med ſtreingelega vera forboded, ad nockur Preſtur æſke nockurs i Peningum, Voru edur æ añañ Hætt fyrer þeſſa Utrietting, hvar fyrer ad Tilgangur Verkſens, villde til Einſkis verda.

8. Eingeñ, hañ mæ vera ſo veſæll og Fætækur, ſem hañ vera vill, æ ad gæangaſt fyrer Vij i þeſſare Hws-Vitian, helldur æ med Alvoru og Kiærleika ad leita eins og ſierhvørs hins Saña Beſta og Velferdar, ſo vel Pioonuſtu-Foolks og Barna, ſem Forelldra og añara Yferbodara; Somuleides eiga ecke Fætæker Betlarar og Umferdar-Børn þar fræ ad utelykiaſt, helldur hvar ſem hellſt og i hvøriu Hwſe þau fiñaſt, giefaſt Giætur ad Gagnſemd þeirra Sæaluhiæalpar.

9. So ſiñ einum og ſierhvørium af Tilheyrendunum, hvørs Stands og Kiøra ſem þeir eru, byriar ad taka æ moote Preſtenum i hañs Hws-Vitian med allre Kiærleiks, Goodvilia og Hlijdnes Audſyning; So ſkal og eingeñ feila ſier fyrer, ad rædgaſt uñ vid hañ uñ Aſigkomulag ſiñar Sæalar, og ad openbera fyrer honum þad, ſem hañ, i Tillite til Hwsſens, Barnaña og Pioonuſtu-Foolkſens Aſigkomulags, fiñur Naudſynlegt til Endurbootar, hvørt allt Preſtureñ uppæ eirn Skinſamlegañ Mæata æ ad vita og færa ſier i Nyt, og þeigia uñ Nafn þeirrar Perſoonu, ſem æ ſoddañ Hætt kyñe honum nockud i Trwnade ad openbera, og þeim Mun helldur Kappkoſta, med Einlægu og Skynſamlegu Framferde, ad uppvekia meir og meir Trwnad til ſijn hiæ þeim, ſem honum eru Tiltrwader.

10. Yfer Hofud byriar Preſtenum vid þeſſa Forretning ad hafa þad Auga-Merke, hvørneñ hun, epter æ Undangæangande Vidurbuning og Bæn til Guds, kuñe ad iñriettaſt ſem allra Uppbyggelegaſt, uppæ þad ad þeir, vid hvøria hañ æ ad tala, kuñe ad hafa þa tilætludu Nytſemd þar af; Eñ ſierdeiles hefur hañ i hiæ þeſſare Hws-Vitian ad kyña ſier, hvørneñ æſtatt er i Hwſenu, þad æhrærer Guds Peckíng, hiæ Forelldrunum og þeim Yferbodnu, hvørt þeir ſiaalfer eru fører til, ad uppfræda þeirra Børn og Undergefna ſem Þorf er til, hvørneñ Mæate Uppfrædingareñar er Daglega uñ Hond hafdur, hvørneñ þad, ſem i Predikun og Catechiſation er uñhondlad, er heima aptur Itrekad, og hvørt þeir vita, ad ſijna þeirra Underhafande ad færa ſier þad i Nyti þeirra Lifnade; Hvar hier kañ nockur Skortur ad fiñaſt, hefur Preſtureñ, epter ſijnum beſtu Vitsmunum, i allre Atſeme ad giefa þau Naudſynlegu Ræd til Endurbootar, hvert ſierhvørium Vidkomande byriar ad leſa,,

ad

ad um̃bæta og til Vara ad taka til næstu Hws-Vitiunar.

11. Ungdoomureñ, bæde Børn og Pioonustu-Foolk, skal med allre Kostgiæfne yfer-heyrast, hvorneñ þau eru i þeirra Christendoome Grundvolluð; Uppa þad hid sama, byriar þeim ad lesa þañ Litla Catechismum Lutheri, so ad Prestarner giete lagfært þad, sem ecke hefur vered riett numed, so og Utlegging yfer Catechismum, hvor sem hañ hefur lært; Hvar hia Prestenum byriar ad giæta þess, sem i vorre Allranaaduguſtu Forordningu um̃ Catechisationena er Allranaadugast tilskipad, i heñar 5. og 6. Artic: So ad þeir med allre Adgiætne laate sier vera um̃hugad ad ransaka, hvort Tilheyrendurner hafa Skin a þvi, med tilbærelegre Eptergrenslan hvorneñ þad er root-fest hia þeim til sañarlegrar Hiartans Um̃breitingar. Par fyrer utañ eiga þeir og, ad miñsta Koste þeir sem eru Booklæser, yferheyrast i þeim Bænum og Psalmum, sem þeir hafa lært utañ ad, hvort þeir hafe Skilning þar a.

12. Diaconi edur Diaknar a Claustrum skulu lijka i hvorre Viku vitia nockra Bæa, edur Hwsa i þeirra Sooknum, til ad uppfræda Børneñ i þeirra Christendoome, og sierdeiles ad kieña þeim, ad lesa a Book og adrar goodar Bæner og Psalma, hvar til þeir þar fyrer utañ hafa ad veria þeim Tijmum fyrer edur epter Predikun, a Suñu-dogum, og odrum Helgedogum, þa Børneñ eru vid Kyrkiu. Til þessarar Reisu i Sooknernar skal Claustur halldareñ vera skylldur til, ad skaffa þeim Hest, nær sem oftast; og hefur Diakneñ, sierdeiles epter Prestsens Raade og Skipan, ad wtvel-ia þau Hws, hvar hañs Naalægdar þarf hellst vid.

13. Fremur byriar einum Keñe-Fødur ad laata sier vera um̃hugad um̃ Egta-Foolks, Hws-Fedra og Hws-Mædra Samfelags Um̃geingne og Fram̃ferde, hvort þau lifa i Christelegre Einingu hvort vid añad, hallda Morgun og Kvølld-Bæner i Hw-se sijnu, kostgiæfa Hreinlijfe og Sparseme i Mat og Dryck, vitia kostgiæfelega opeñ-berrar Guds-Pioonustugiørdar, og laata sier almeñelega sañañ Guds Otta vera um̃-hugadañ i þeirra daglegu Erfide. Hvar i hia Presturenñ hefur ad aaminna þau ad taka sier Vara fyrer ollu þvi sem kañ ad giefa Hneixle af sier, so sem eru: Oforlijkun, Bloot, Dryckiuskapur, Baraatta, Okur og þesshaattar. Skule hañ hafa nockurt Hws forþeinkt fyrer slijkar edur adrar Synder, a hañ þvi helldur ad kosta Kapps um̃, med Gudlegum og alvarlegum Fortolum, ad fa slijkt Hneixle og Ogudlegt Athæfe hindrad og afskaffad; Eñ, sie eingeñ Endurboot, epter þridiu Aminning i Medhiaalp-arañа Vidurvist, augliooslega ad sia, þa skulu þau wtstanda Kyrkiuñar Disciplin, og straffast þar fyrer utañ, epter Astande af þvi Versleaa Yfervallde med Peninga Utlaatum til faatækra Barna Uppheldes, eda, ef þau eru so faatæk, ad þau gieta ei betalad, þa med Gapa-Stocknum.

14 Prestarner skulu og i þessare Hws-Vitian hid wtþryckelegasta setia fyrer Siooner

Forelldrunum og þeim Yferbodnu þa Pligt, sem þeir eru þeirra Bornum og Undergiefnum umſkylduaer, So sem umfram allt i Tillite til þeſs Andlega, ad uppaga og leida þau til Otta DRottens, og Sierhvorn Dag ad Leſa, edur læta Leſa, og bidia bæde fyrer og ææſamt þeim, ſo og i þvi Lijkamlega, ad umgaangaſt þau, ſem Chriſtelegt og Sæmeleat er, Par hiæ Koſtgiæfelega ad hallda þeim til Erfides, og ecke ad leifa þeim nockurt Ydiuleyſe, edur ad lifa i Siaalfræde epter þeirra eigen Villd; Somuleides ſkulu hans Amynningar vera innþreyngiande ſier til Barna og Pioonuſtu-Foolks ad audſyna þeirra Forelldrum og Yferbodurum alla Elſku, Hlijdne og Virding, og med ollum Viliugleika, æn Moglunar og Mootmæla, ad framkvæma þad, ſem þeim verdur ſkipad; En ſkule Preſturen merkia nockurskonar Ohlijdne vid Forelldra eda Yferbodara, Og ad þau ecke vilia læta ſier med Goodu ſeigiaſt, Pa ſkal han til hallda Forelldrunum, ad ſtraffa þeirra Born þar fyrer; Forſoome Forelldrarner þad, Pa ſkal þad ſkie i Medhiaalparana, og jafnvel Preſtſens eigen Nærveru; En ſo framt þeir verda æſkynia ad Pioonuſtu-Foolked ad O ogtudum giordum Amynningum, framhelldur i ſijnum Mootþrooa, þa giefe þeir þad til Vitundar Syſlumanne og Hreppſtioorum, ad þad verde ſtraffad epter þeſs Framferde.

15. Preſtarner ſkulu med Koſtgiæfne ſiæ epter þeim Bookum, ſem til Daglegrar Ydkunar Gudhrædſlunar brwkaſt i Hwſenu, og giefa Undervijſun um, hvornen þær, Sem til eru, ſkule til Nytſemdar brwkaſt; Uppæ þad ſama ſkal han læta eirn af Foolkenu i Hwſenu leſa, ellegar, ef eingen kan ad leſa, leſe þa ſiaalfur eina Grein i eirnre Andlegre Book, og þar af Ranſake, hvad hvor eirn hefur ſier til Uppfrædingar numed, uppæ þad ad han þar af giete reynt med hvada Epterhuxan og Tileinkan Guds Ord er heyrt, og faae Hentugleik, til ad undervijſa einum og ſierhvorium, ſierdeiles Forelldrum og Yferbodurum, æ hvorn Hatt Leſtur Gudlegra Booka ſkal hvorn Dag yfervegaſt, Og þar af ſijdan tilbærelega examineraſt.

16. Skule aungvar Bækur finnaſt i Hwſenu, hvar ed Foolk kan þo ad leſa, hefur Preſturen ad bera Umhyggiu fyrer, ad ſaa Breſtur verde bættur, og ſkal ſierhvor Hwsfader vera ſkylldugur til, ad kaupa þa Book, ſem honum verdur af Preſtenum recommenderud og Raadlogd. Hvort Preſturen ſkal ſtrax hiæ ſier uppteikna, og ſijdan æ hentugum Sunnudeige i Medhiaalparana Raalægd leggia þad hvorium Einum fyrer, uppæ þad þeir ecke ſijdan ſkule neita þvi; Po er hier undanteked Or-Faatækt Foolk, ſem af annara Orlæte og Tilſtirk æ ad forſorgaſt med þeim Naudſynleguſtu Bookum. Pa Hws-Vitianen er til Enda, Sende Preſturen Profaſtenum Eina Uppſkrift allra þeirra Booka, ſem han þarf handa ſijnum Sofnude, hvar uppæ Profaſturen ſende aptur Biſkupenum eirn General-Liſta yfer þær af ollu ſijnu Profaſts-Dæme, og han aptur giore þa Raadſtofun, ad þær umbednu Bækur verde utvegadar, og uppæ ~~is~~ Hieradſens Umkoſtnad burt ſendar til Profaſtana; Og ef Einhvor vill eck~ Ein ~ betala þær medteknu Bækur, ſkal Syſlumaduren i hvorre

Syſlu,

Sysslu, epter Profastaña og Prestaña Aviisan Mootmælalaust iñdriifa Peningana fyrer þær, so ad þeir iñañ Ars og Dags kuñe ad vera hiaa Profastenum til Reidu, hvor ed Tafarlaust kome þeim til Biskupsens i Stiftenu. Beigre nockur sier vid ad kaupa sier Naudsynlegar og af Prestenum raadlagdar Bækur, bæte þar fyrer Tveimur Morkum Donskum, og sie þo samt skylldur til, ad kaupa og betala þær, liika og ad betala hærre Mulct, ef hañ fremur skyllde vera Mootþrooanlegur; Hvorre Mulct, Presturen og hañs Medhiaalparar skulu veria til ad iñkaupa Bækur handa þeim Faatækustu i somu Sookn; Eñ uppa þad ad eingeñ Ologleg Sala skule brwkast aa sliikum Bookum, þa skal þryckiast aa Titel-Bladed fyrer hvoria Book, hvad miked hun kostar O-Iñbundeñ.

17. Skule þar fiñast þau Hws, hvar eingeñ er Læs, þa aa Presturen ad hallda Forelldrunum til eda odrum, ad þeir Daglega gange i giegnum med þeirra Bornum og Underhafande þad Liited, þeir sialfer vita i, og skal hañ añars sorga fyrer, ad sliikum Bornum verde komed nidur hiaa odrum Æfdum Moñum i Sokneñe, hvar ed þau i Lestre og þeirra Christendoom kuña ad faa Underviisun, hvoriu ad Forelldrunum, med þeirre Affokun, ad þeir sialfer brwke Born siin til Erfides, byriar aa aungvañ Hatt ad setia sig aa moote, med þvi ad þar vid hindrast þeirra Barna þad Saña Besta; Po, med þvi, ad þetta alleinasta skilst um þad Foolk, sem lifer i Faatækdoom, og Umferdar-Born, hvorium þar fyrer utañ af Sysslumoñum aasamt Reppstioorunum i allañ mogulegañ Maata, byriar ad hiaalpast, ad þau fyrer añara Orlæte og af Faatækra Tiiundum odlest nockud til Underviisunar i Lestre og þeirra Saaluhiaalpar Peckingu; þa skal þar aa moot þeim Forelldrum, sem sialfer hafa nockra Formegan, eñ ei eru Læser, af Prestenum tilhalldast, og vera skylduger til, añadhvort sialfer ad wtvega sier Biñu-Mañ eda Biñu-Stwlku, sem kañ ad Lesa, og underviisa þeirra Bornum, edur ad koma Bornunum nidur añarstadar, hvar ed þeim fyrer Betaling kañ ad verda underviisad. Fiñest þeir treger þar til, Bæte fyrer hvort Barn 4 Morkum Donskum, edur meir epter þeirra Formegan, og sieu samt skyllder til, ad laata þeirra Bornum, sem sagt er, Underviisa, hvoriu ollu Presturen og hañs Medhiaalparar aasamt Sysslumadureñ og Hreppstioorarner, aan Mañgreinar-Alits, hafa ad giefa Giætur ad; Skyllde nockud af Pioonustu-Foolke, sem kañ ad Lesa aa Book, vera so Illviliad, ad þad ecke añadhvort villde Daglega lesa Hws-Lestur, ellegar fyrer Bornunum, þa þvi er þad skipad, þa skal Presturen Fyrst i Medhiaalparaña Aheyrn, aamiña og advara þad þar um, og þa sliikt eckert gagnar, laata þad af Hreppstioorum i 2. Tiima eda leingur, setia i Gapa-Stockeñ. Beigre Eitt Barn sier vid ad læra, og agti ecke Forelldraña Amiñingar og Aga, edur Forelldrarner forsooma þad sama, byriar þeim þar fyrer af Prestenum i Medhiaalparaña Naalægd tilbærelega ad setiast til rietta.

18. Presturen skal þad alvarlegasta aamiña Heimiles-Folked ad vakta sig fyrer Onytsamlegum Sogum og Oliiklegum Æfeñtiirum og Uppdicktum, sem i Landenu hafa

verid

vered brwkanlegar, og aunavanveigeñ lijda, ad þær sieu lesnar edur kvednar i þeirra Hws sum, so ad Borneñ og þeir Uppvaxande villest ecke þar af; So og skal hañ tilhallda Foolkenu, ad þeir so vel sialfer, sem og lijka þeirra Underhafande, hallde sig fraa ollum Skadlegum Spilum og Leikum, Hvada Nafne sem heita kuña, epter þvi ad þar af fædest einasta Praattan, Osamlynde, Afflog, og añad Vondt, sem Einum Christnum er Osæmelegt, þar hiaa reitest þar med GUD til Reide, og faa Dijrmæte Tijme, sem til Gudrækelegrar Yfervegunar og Nytsamlegs Erfides aa ad brwkast, eydest; Þar um byriar og ad aaminña þaa, ad hallda sier og sijnum fraa Hiaa-Trw, sem hiaa Einum og Odrum skal fiñast, og þar aa moot Undervijsa þeim, hvorneñ þeir under Hiaastod Þess Allra-Hædsta Riettelega kuña ad veita Forstodu sijnu Hwse, uppaa þad ad Guds Dijrd kuñe Daglega þar vid ad eflast, og honum lifande Mustere tilbwast, i hvoriu hañ kuñe ad hafa Lyst ing ad bwa med siñe Naad og Blessan.

19. Prestunum byriar og so med þessum Hentugleik ad hafa Tilsioon um, hvorneñ Tijundum þeirra Faatæku er skipt medal Sveitareñar edur Sooknareñar Faatækra, og þar hiaa aaminña þaa Vel-Meigande, ad hiaalpa þeim Naudlijdande i Sookneñe med Laane og Olmusum, I hvoriu og so Prestunum byriar ad gaanga undañ med Einu goodu Epterdæme, epter þeirra Efnum og Formegan.

20. So sem Prestureñ aa ad uppbyria Hws-Vitianena med iñelegre Bæn og Akalle i allra Nærveru, ad Gud vilie leggia sijna Blessan til þessa Aforms, so byriar honum og ad enda med Bæneñe, og þar hiaa ad iñræta i Hiortum þeirra Naalægu þessa Efnes Ypparlegleik og stooru Naudsyn, So og hvor ad sie sierhvers Skyllda þar epter, til Daglegrar Endurmiñingar og Upporfunar fyrer þaa, til þins Gooda.

21. Og uppa þad Presturenñ þvi helldur kyñe ad vita og miñast fundens Asigkomulags sijns Safnadar, og giora Skil fyrer þvi, nær þess af Biskupenum edur voru Kyrkiu Inspections-Collegio kañ ad verda ofkad; Þa skal þad hier med ollum Prestum aa Islande Allra-Naadugast vera Befalad, ad Eirn og Sierhvor af þeim samañtake yfer hiis Tiltrwadañ Sofnud Eitt Mañtals-Registur uppaa Gamla og Unga, Gipta og Ogipta, og i þvi sama i vissum Daalkum iñfæra eins og sierhvors Tilstand og Asigkomulag, hvada Grundvoll þeir hafa i sijnum Christeñdoome, hvort þeir kuñe ad lesa aa Book edur ei, Hvad morg Born og Hiw þeir hafe, Þeirra Þecking og Framferde, Hvorneñ þeim er stioornad, Hvada Book þar brwkast til Daglegs Hws-Lesturs og Gudhrædsluñar Ydkunar, Hvorneñ ad þeir Olldrudu veita Forstodu þeirra Hwse, Hvort þeir eru aller aastundunarsamer og Samhuga med odru fleira.

22. Þær Peninga-Mulcter, sem i fyr-tiedañ Maata Forbriootast og Iñheimtast, skulu af Prestunum med Raade hañs Medhiaalpara vixlast til þeirra Faatæku og mest Þurfande Barna Undervijsunar; Hvar um honum byriar sijdañ ad giefa

Profast-

Profastenum Undervijsun. Ef nockur Versleg Yfervallds Persona skyllde giøra Undanbrogd, ad iñkrefia soddañ Mulcter, edur sia i gegnum Fijnaur vid þa seku, ad þeir ei yrde straffader, skal hañ fyrer Undañdrætt hvørs Mæanadar giefa 2. Rixdale til hiñar somu Brwkunar. Vere þad til añad Ar aptur uppa Nij, þa Tvøfallt so miked, eñ i þridia siñ, suspendereſt hañ fraa Embættenu, hvar um Vor Amtmadur skal hafa Tilsioon, so sem vier þeß vegna høfum Allranadugaſt tilskickad Embættes-Meñ og Yfervallds Persoonur i Landenu, ad þeir Alvarlega skule tilhallda, ad Vorum Allranaduguſtu Befalningum af einum og sierhvørium Allrä-Underdanugaſt verde Streingelega epterlifad.

Fyrer utañ þeßa soleides Allra-Nadugaſt befalada Hws-Vitian, skulu Preſtarner og vera til Reidu og Reidubwner, ad vitia hiña Siwku i þeirra Søfnudum, nær þeirra er Oſkad, ad undervijsa þeim af GUDS Orde, hvørneñ þeir i þeirra Siwkdoome, epter þeirra Saalar Tilſtande, hafa sier ad haga og ad ærmiña hina adra æ Heimilenu, ad ganga þeim Siwku til Handa med Daglegum Leſtre og Stadfeſtu og Gudrækelegu Bæna Akalle og Upporvan, so hañ alltijd kuñe ad halldaſt i Andagt, ad upplypta sijnu Hiarta til GUDS; So byriar og Preſtenum ad æmiña siñ Søfnud, ad hañ æn Qvalar tilkyñe honum nær einhver er ordeñ Siwkur, uppa þad hañ jafnvel Okalladur þeß optar giete komed þangad, sem hellſt þarf vid. Þa Preſtureñ er sooktur til hins Siwka, byriar Hwsbondanum ad læta færa hañ Frañ og til Baka, nær Preſtureñ þeß Oſkar.

24. Preſtarner skulu under þeirra Embættis Topun vakta sig fyrer, ad mæda þa Siwku med nockurſlags hneixlunarlegu og Otilhlijdelegu Tale, um þa Hlute, sem kuña ad hindra þa fra tilhlijdelegum Underbwninge til Saaluhiaalplegrar Endalyktar.

25. So sem nu Iñehalld þeßarar Vorrar Allra-Naaduguſtu Forordningar alleinaſta horfer til Vijdfrægingar Guds Dijrdar og hañs Kyñingar og til Frañkvæmdar þeirrar Tijmanlegu og eilijfu søñu Velferdar Safnadaña i Voru Lande Islande; Og Vier i soddañ Ihugan, høfum þad Allra-Naadugaſta Trauſt, ad hun verde med Koſtgiæfne og Arvekne af þeim Andlegu a Islande af eigen Adkalle allra underdanugaſt uppfylld og epterlifad; Þa bioodum vier þo hier med og Allra-Naadugaſt befølum Vorum Superintendentum a greindu Voru Lande Islande, ad þeir sierhvør i hønum Allra-Naadugaſt tiltrwudu Stipte jafnañ og ætijd hafe vakande Auga þar yfer, ad þeßare Vorre Allra-Naaduguſtu Forordning verde af øllum Geiſtlegheitunum alvarlega epterlifad, æn þeß hañ siaalfur, ef nockur Breſtur nu edur sijdar skillde þar i fiñaſt, vilie svara þar til; Uppa þad skal hañ koſtgiæfelega spyriaſt fyrer hia underhafande Proofoſtum i Stiptenu hvørneñ um þeßa Embættis Utrietting frañfare, og sierdeiles i sijnum Visitatium openberlega epter spyria, hvort slijkar Hws-Vitianer frañfare, hvørnañ; Somuleides

udervijsa Proofostum um̃ þeirra Nytsemd og Naudsynlegleika, þar ed þeir i sama Maata skulu vera skillduger til, ydugleg ad uppörva Keñedoomeñ i þeirra Proofasts-dæme til allrar Gudlegrar Vandlætingar hier i, og, þa nockur Brestur hiaa einum edur ödrum fiñst, Hañ þar um̃ fyrst skriflega ad advara, eñ ef eingeñ Endurboot fylger, þa Presturen̄ aan Mañgreinar-Alits, fyrer Biskupenum ad angiefa, uppaa þad honum verde til Presta Samkomu stefnt, og epter Forþienan aliteñ.

Forsoomest þetta af Profostunum, skulu þeir sialfer vera Biskupsens Tiltale Undergiefner. Þvi bioodum Vier hier med og befölum Vorum Stiptbefalnings-Mañe, Biskupum, Amtmañe, Lögmoñum, Syslumoñum og ödrum sem þesse Vor Forordning verdur tilskickud, ad þeir hana aa tilhlijdelegum Stödum, til allra Eptrettingar strax laate lesa og kuñgiora. Giefeñ aa HIRSCH-HOLMS Sloþañ 27, Maij, Anno 1746.

Under Vorre Konglegre Hende og Signete.

Christian R.

(L. S.)

Epter Allra-Naadugastre Skickan til mijn underskrifads, Dateradre aa HIRSCH-HOLMS Slote, þañ 27. Maii. 1746. Er þesse Allra-Naadugasta Forordning um̃ Hws-Vitianer aa Islande, þañig sem her sie̋st, wtlögd aa Islendsku, epter þvi Danska Exemplare, og laateñ wtganga aa Prent. Test. Stada Stad þañ 6. Augusti Anno 1747.

HALLDOR BRINIOLFSSON.